[Þess íslendska evangelíska smábókafélags rit Nr. 16.]

# Gagnsemi af lestri heilagrar ritníngar, sønnud af dæmi Jakob Byrne.

Utløgd úr engelsku af útgéfaranum.

---

Jakob Byrne, uppalin vid lærdóm þeirra rómversk-cathólsku trúarbragda á Irlandi, hafdi lagt fyrir sig vefara handverk í stadnum Athy. Þad bar til, ad hann komst yfir nockur blød úr einu útslitnu nýatestamenti, sem hann bar sig ad lesa, þó forbódt væri. Þegar hann hélt nu þessum lestri áfram, tók hann eptir því, ad þessi ord komu svo opt fyrir: „Jesús sagdi til þeirra." Og sem hann lángadi inniliga til, ad skilja þad, sem Jesús sagdi, þá kostadi hann mikils kapps um, ad finna meiníngu þess, sem hann las, og neytti því allra þeirra stunda, sem hann gat vidkomid, til þessa verks. Þad merktist mikid fljótt, ad Jakob gjørdist áhyggjufullur um sína eilífu áqværdun; og menn heyrdu hann nockrum sinnum segja, ad hann vildi alla armædu og kváníngar þola, til þess ad géta ordid full-

viss um frelsi sálar sinnar. Þegar hann var nú staddur í þessu ásigkomulagi, leitudust nockrir gódir vinir hans vid, ad vísa hønum veg til þess hjálpræðis, sem Gud, í ritníngunni, mannkyninu opinberad hefur. Þegar hann fécksi um þad, hve sekur og syndugur hann væri í Guds augliti, sýndu þeir hønum ofan á, ad allt hvad hann segdi um sitt eigid ástand og sinnislag, væri þessháttar, sem ritníngin segdi sjálf ad satt væri; en þar hjá søgdu þeir hønum, ad Gud hefdi uppfundid einn veg og máta, til ad frelsa þær seku og fortøpudu mannesskjur, á þann hátt, ad hann tilsett hefdi eitt lausnargjald fyrir syndirnar, og skýrskotudu til þeirra orda ritníngarinnar, sem fylgja: „Svo elskadi Gud heiminn, ad hann gaf út sinn eingétinn son, til þess, ad allir þeir sem á hann trúa, ecki skuli fyrirfarast, heldur hafa eilíft líf (Joh. 3, 16)" „Þad er eitt sannarligt ord, og verdugt allrar vidtektar, ad Jesús Christur er í heiminn kominn, synduga menn sáluhólpna ad gjøra" (1 Tim. 1, 13.) Og sem nú vinir hans brýndu þetta fyrir hønum opliga, urdu þeir, med gledi, þess varir, ad hann fann hvíld fyrir sálu sína, út af þeirri sannfæríngu, ad þessi ord væru guddómligur sannleikur, sem ætti fullkomliga vel vid ástand einnar sekrar og fordæmdrar skèpnu, þvílíkrar sem hann merkti sjálfan sig ad vera. Nú vard sá gódi Jakob sannfærdur um, ad vorrar endurbættu kyrkju

lærdómur væri miklu betri en þeirrar caþólsku, í hvörri hann uppalinn var, hvarfyrir hann og svo gaf sig til vorrar kyrkju, en yfirgaf hina. Þó er það adgjætandi, að ecki voru þessi umskipti það eiginliga, sem gjörðu hann vissari og betri í Guðs augum; þar margur lifir sá í vorri kyrkju, já margur yfirgéfur þá caþólsku og snýr sér til vorrar, fyrir það, hann er sannfærður um, að vor lærdóms máti sé miklu betri en hinna, sem þó einun að sönr er aldeilis snauður af þeim sannleikans krapti, sem umbreita skal, fyrir heil. anda, mannsins hjarta sáluhjálpliga til lifanda Guðs. En svoleidis var ecki ástadt fyrir vorum Jakob. Hann ecki einasta skildi, eptir skynseminni, hve miklu ágjætari vor lærdómur er en caþólskra, heldur fann og svo þess sama lærdóms auddómliga krapt í sálu sinni; þetta vottadist af þeirri umbreitíngu, sem lét sig í ljósi í sinnisfari hans og hegdun, sem var þvílík, eins og heilög ritníng fullvissar oss um, að altíð finnist hjá öllum þeim, er í sannleika hluttakandi verda jafn dýrmætrar trúar, sem þeir fyrstu Christi lærisveinar höfdu. Sérhvör, sem þeckt hefdi Jakob, ádur hann umvendtist, mundi hafa var ordið dásamligustu sinnaskipta hjá hönum, svo öll hans útvortis hegdan vard lángt ödruvísi en hún hafdi ádur verid, og sýndi það efunarlaust, að hún verkast hefdi fyrir það hann lesid hafdi nýatestamentid.

Þegar módir hans frétti um hans sinnaskipti, kom hún til hans, og leitadist vid að telja hann til

að snúa aptur til þeirrar kyrkju, í hvörri hann hafði uppalinn verið. Hennar ástæður vóru þær vanaligu, sem cathólskir jafnan brúka, nefniliga: að sú kyrkja sé hin gamla kyrkja, sú sanna kyrkja og sú einasta kyrkja, og hún qvað sig alla furða, hvað skyldi hafa gétað komið sínum ógjæfusama syni til að yfirgéfa hana.

Þessar ástæður mundu vísst hafst hafa stóra makt yfir Jakobs hjarta nockrum tíma fyrri; en nú var hann orðinn líkur manni þeim, sem fest hefur sjón á þeim hlutum, sem fyrir innan fortjaldið eru, og lætur því ecki leingur táldraga sig með tómum ordanna hljómi. Hann beiddist af móður sinni, að hún skyldi sanna fyrir sér ástæður hennar af Guðs orði, en úr þeim sjóð gat hún eckert framborið, svo hennar sannfæríngar, móti Jakob, vóru þessvegna ávaxtarlausar.

Þegar hún nú fann, að hún orkaði eingu við hann, með góðu, þá tók hún til að hóta honum og ógna. En þessi vopn dugðu henni ecki betur, en þaug sem hún áður brúkað hafði; því Jakob hafði «reiknað kostnaðinn."

Hann vissi vel, að hann, með þessari fyrirtekt, mundi draga yfir sig óvinnáttu allra sinna fyrri vina; en hann hafði líka lesið þaug orð í sínu nýjatestamenti, þegar Jesús sagði: «hvör hann elskar föður og móður meira en mig, sá er mín óverdugur" (Math. 10, 37.); og þessi orð höfðu stærra vald yfir hjarta hans, en

allar adrar rakſemdir, ſem annadhvørt ſjálfum hønum í hug féllu, edur brydar vóru af ødrum fyrir hønum. Þegar módir Jakobs vard nú þeſs var, ad hún vann eckert á hann, hvørki med ſannfæríngum né hótunum, yfirgaf hún hann grátandi, og taldi hann viſſuliga fortapadan, ef hann ecki ſneri ſér aptur til þeirrar kyrkju, frá hvørri hann vikid hafdi. Skømmu þar eptir, bad módir hans hann ad fara til ſín og vera hjá ſér um tíma, því hún hugſadi efalauſt, ad ef hún gjæti komid hønum í burtu frá því fólki, ſem hún ímindadi ſér ad hefdi afvegaleidt hann, og feingid hann til ad umgángaſt ſína fyrri vini og kunníngja, þá hlyti hann ſumpart viljugur, ſumpart naudugur, ad verda yfirtaladur, til ad ſleppa þeim nýu grillum, er hún áleit hann herteкinn af. En þeſſi hennar eptirvæntíng bráſt henni eingu ad ſídur gjørſamliga. Því hvørſu ſem, á allan hátt, til var reyndt ad ſnúa hønum til ſinnar fyrri trúarviðurkénníngar, hélt hann því ſama ómbreitta ſinnislagi, ſem ádur; og þar hann hafdi flutt med ſér ſinn dýrmæta ſørupaut nýateſtamentid, þá var þad vani hans, ad gánga á hvørjum deigi afſídis, út á mørkina, til þeſs ad géta því betur fyrirtafarlauſt notad ſér þeſs uppbyggiliga leſtur. Þegar hann fór nú aptur til ſtadarins Athy, hvar hann eiginliga heima átti, ſáſt á hønum, ad heilſufari hans var tekid ad hnigna, og kránkleiki hans jókſt mikid ſljótt, ſvo þad var audſjed ad líf hans var í hættu ſtadt.

Og sem hann sjálfur þóktist fyrir víst vita, ad sér mundi ei aptur batna, þá vildi einn af hans sonum vinum, sem umhyggju bar fyrir sálu hans, komast ad, á hvörjum grundvelli ad von eilífs lífs hjá honum bygd væri; og, sér ei til allítillrar gledi, komst hann ad raun um, ad sminðanir hans, um þann sáluhjálpliga sannleika, væru aldeilis ritníngunni samhljóda, og von hans grundvölluð á einu óraskanligu helluhjargi. Allt þad, sem hann á sjálfum sér hafdi, vár þad, ad hann hefdi unnid til reidi lifanda Guds, sem einn yfirtrodslumadur hans løgmáls; en ad Gud hefdi, af sinni óransakanligu miskun, sparad sig, og unnt sér ydrunar «til sannleikans vidurkénníngar".

Dómur hans, um lausnarans persónu og verk, var ogsvo heil. ritníngu oldúngis samkvæmur; hann áleit hann, sem þann, á hvörs fridþægíngu, sá syndari, sem frelsast vildi, ætti einúngis ad setja von sína, og leita þar hælis og sáluhjálpar; og hann vidurkéndi, ad þessi sín trú væri ecki einúngis fyrir mannanna uppfrædíngu inndruckin, heldur væri hann sannfærdur, af sjálfum anda vísdómsins, um hennar gildi, krapt og nytsemi; og ad hann segdi þetta satt, til þess voru hin ljósustu rök þad: hvörsu allt hans sinnislag og framferdi var fullkomliga svo umbreitt og lagad, sem sambýdur náttúru þess guddomliga sannleika, nær hann fær sigur yfir manneskjunnar hjarta. Hans vinur, sem vissi þad, ad trú eins Guds barns verdur opt, á þess

daudastundu, sett í hina hørdustu reynslu, gyrntist stakliga ad fá vitneskju um, hvílíkt álit hann hefdi á daudanum, og tók sér þessvegna tækifæri ad seigja hønum, ad hann uggdi ad hann vissuliga væri í nánd, og lét sem hann sjálfur væri þar út af óttaslegiinn. En Jakob tók á móti þessu hans tali, svo sem sá, hverjum daudans koma væri hvørki óeptirvænt né óttalig, og lét í ljósi hina sterkustu sannfæríngu um, ad sá blessadi sannleikur, sem hann út af ordi drottins lært hefdi, mundi verda sitt hjálprædi og føgnudur, á þeim óttaliga tíma síns vidskilnadar. Tími hans burtfarar nálgadist og ódum, á hvørjum þad sannast skyldi, hvørt hann mundi sigur vinna yfir þeim sídarsta óvini, edur ecki. Daudinn var sjáanliga fyrir dyrum. En hann rédst hér ecki á einn vopnlausan, heldur þann, sem klæddur var í herskrúda Guds; og hvør ed, i fullu trausti frelsarans fridþægíngar, kunni ad mæta hønum, med þessum sigurhróss ordum ritníngarinnar: „daudi! hvar er þinn broddur?" Jakob lá sjúkur nockrar vikur; en á medan sá tími varadi, var hann fullur hins sterkasta trausts til hans, sem frelsad hefur syndarana med sínum dauda; og svoleidis sofnadi hann burt í sama trausti.

*    *    *

Þessi frásaga, um Jakob Byrne, er sannliga lærdómsrík og mikilvæg, hún má uppvekja forundrun blandada gudligum føgnudi. Dást má ad

því, hvörsu forsjón Guðs hagaði því svo til, að sá einn útslitin blöð nýatestamentisins urðu þessum únga manni fyrsta orsök hans umvendunar; hvörsu hans hjarta varð svo voldugliga af sannleikanum fángað, að hann svo 'fljótt fékk yfirunnið uppeldis hleypidóma (sem optast hafa sterkustu makt yfir hjarta mans), svo hann skeitti eingum þeim fortölum né forakti, sem hann þola mátti af sínum holdliga sinn uðu vinum og frændum, heldur umbar allt þetta með þolinmæði og staðugleyndi. Að hann skildi sig við þá cathólsku, en gaf sig til þeirrar endurbættu kyrkju, var — svo mikið sem það þó var — minna í varið, en þá sannebangelisku umbreitíngu, sem hans hjarta- og lifnaðar-lag tók í öllu öðru. Og þesskonar umbreitíngu verdur hvör sá að taka, sem not vill hafa af lestri Guðs orða, hvört sem hann kallast lútherskur, calvínískur eður cathólskur. En, Guð nádi! hvörsu mörg hundruð, miðt í sjálfri þeirri endurbættu kyrkju, lesa ritníngana, hjá hvörjum þó ecki votta sig þvílík sinnaskipti! Einn kann að lesa ritníngina fyrir lærdóms skuld, til að skilja, sem verdur, hennar sönnu meiníngu, svo sem guðfræða stúdentar gjöra; annar fyrir embættis skuld, til að draga út af henni rökfemdir trúarbragdanna og siðbóta reglur, svo sem prestar; já en framar, einn kann að lesa hana fyrir guðrækins skuld, með að gjöra sér það að vana, að lesa í henni einn eður tvo kapitula dagliga; en allir þessir kunna þó að lesa hana, án þess þeir taki þarvið

þaug sønnn evangeliska siunaskipti. Svo leingi lestur hennar fœdir mann ecki ad nýu og gjørir hann Gudi og mannkynsins frelsara lyndis-líkan, svo leingi er allur hennar lestur og ígrundan sálu mans framar til fordæmíngar en frelsunar. Vakni samvitska mans ecki upp, til ad sjá, med inníligu ángri og viðbjód, syndir sínar, og sérílagi spillíngu sinnar náttúru; gjørist hann ecki hugsjúkur um ad ná lækníngu sálar sinnar og fái svo, med lifanda trú og elsku, fest sjónir á því «Guds lambi, sem burtber veraldarinnar syndir"; verdi hann ecki upphvattur til ydugligrar umgéngni vid Gud, med bænum og heil. hugleidíngum; snúist hjarta hans ecki frá þessu jardneska til þess sem þar uppi er, hvar Jesús Christur hans frelsari situr til Guds hægri handar; dempist ecki í hjarta hans holdligt sinni, svo sem ágyrnd, búksorg, hefndar-gyrni, lostasemi, og adrar saurugar gyrndir, en verdi þar á móti andliga sinnadur, til dæmis: góð-gjarn, miskunsamur, skírlífur, ja ávaxtarsamur í øllum gódum verkum, hvør eptir sínu standi og em-bætti; verki ecki, seigi eg, lestur heil. ritníngar þetta hjá einum manni, hvørt hann er ædri sjettar edur lægri, leikur edur lærdur, karl edur kona, þá hefur hann hans eingin sønn not til sáluhjálpar. Seig nú ecki: «þetta er hørd ræda, hvør kann henni ad hlýda?" því ritníngin sjálf — ja Jesús Christur í ritníngunni — stadfestir hana. "Hvør hann

heyrir (edur les) min ord, seigir hann, og gjörir þaug ecki, hann er líkur sávísum manni, er hús sitt bygdi á sandi, hvört ed hrundi til grunna, þegar steppiregn og stormar á því dundu." Paulus seigir „ad eingin erfi Guds ríki, sem í vísvitandi hóid-sins verkum lifir." Petur seigir: „ad þeir sem þeckt hafi Jesúm Christum (út af hans ordi), en snúa sér þó frá hans heilögu bodordum, séu líkir hundum, sem eta upp spýju sína, og svínum, sem velti sér í sama saur." Jakob seigir "ad hver sá, sem er ordsins heyrari (edur lesari), en ecki gjörari, hann svíki sjálfan sig, og hans trú sé daud." Jóhannes seigir: „hvör hann seigir: eg þecki hann (vesniliga út af heyrn edur lestri hans orda), og heldur ecki hans bodord, hann er lygari, og í hönum er ecki sannleikur." Öll þessi ord eru alls ótvíræd.

Nú ef ecki allir þeir, sem þó lesa heil. ritningu, verda hjálpligir, hvad þá hinir, sem hana hafa og lesa ecki?

Hversu lángt eru þeir frá Guds ríki!

En þvert á móti, allir þeir, sem hana lesa og lesa med audmýkt, bæn og trú, þá mun vissuliga Guds nádarkraptur auglýsa sig á sálum þeirra. Því eins og Moysis andlit vard glansandi, þegar hann hafdi til leingdar dvalid hjá Gudi, uppá fjallinu fordum, svo munu allra sannra Guds ords rækjenda sálir verda, fyrir þeirra ydugligu umgeingni med Gudi, andliga ljómandi, bædi innvortis, fyrir trúna á Jesúm, og útvortis, fyrir þeirra gud

liga lifnadar skuld; já þeir «munu upplýstir verda, af drottins anda, frá einni dyrtu til annarar" (2 Cor. 3, 18.), og «Gud mun géfa eitt svo klárt ljós í þeirra hjörtu, ad fyrir þá framkomi upplýsíng af þeckíngu Guds dýrdar, í andliti Jesú Christí." (Cap. 4, 6.)

## Packlætis Saungur

(eptir Gellert).

Þú ert sá drottinn þeim sem ber þúsundfölld æra' og dyrkaner; vegsemd þér veiti' eg nú. Hag mínum stiórnad hefur þú, hönd þín mig leiddi' og nádin trú.

Hörmúng þegar mig heimsókti, hrópadi' eg Guds á trú:esti; grátkvaki' hann gengdi mín, og lét mig, eptir líknsemi sín, leisast út af naudum og pín.

Í stúkdóms og eimda söck eg hil, sídan kalladi' eg drottins til: frelsa mig fadir kiær! hann mig þá leiddi háska fiær, hrestust mín bein, svo vard eg gladvær.

Óvina þegar illsku géd ángradi mig, þad klaga réd drottni, hvörs dád ölug rymdi burt frá mér hefndar hug, en hiartanu veitti þolíyndis dug.

Þegar eg dygdaferli frá fánginu í synda snörum lá, til herrans eg hrópadi, sem völudum nád er veitandi; hann veitti mér nád og líknsemi.

Um huggun var ángrádt hiarta mitt, herrann því auglit dulldi sitt, hrópadi' eg þá til hans: hve leingi skal á huggun stanð? hann gaf mér veikum fagnadar ans.

Hiálpad hefur mér herra sá; hiálpa mun hann og eptir á; trúfastur hiálpar hann. Ur freistínga snørum frelsa kann, sús til dygdanna krapta mér ann.

Fyrir þá reynslu' eg þacka þér þú sem af elsku sendir mér, og hiartad mitt hreinsa vann. Fagnud eg líka þacka þann, úr þinni høndu til mín sem rann.

Sáfur eg eirnig þacka þær þú sem mér veittir herra kiær, líkamans efnum í; slíkt er frá þér, eg þacka því, þín er miskunsemd dagliga ny.

Mest þacka eg þá mildu náð og mikid dásama hiálparrád: ad sekum gafst sonin þinn. Gisrvalt mitt hiarta sál og sinn, syngur þér lof skapari minn.

Vegsamid drottinn verk hans øll! veræld er af hans giædsku full; hans, hans því hrósid er, vitska styrkur og veldid hér, veitir hann hiálp og frelsanir tér.

Heyrist ad qvelldi harma vein, hefst upp ad morgni gledin hrein, því veldur hiálpin hans. Eptir skammvinnra eimda stans uppheiur oss til sælunnar rans

Gleim ecki sál mín Guds þíns náð, gleim ei ad, þacka' hans hiálparrád, sem hann einn syndi þér; vegsama hann og heidra hér, í hlydninni dyrd hans tilbidier!

---

Kaupmannahøfn 1819.

Prentad hjá Þorsteini E. Rangel.